# KVÆÐI,

sungin við

# GLEÐILEIK

í

**Reykjavíkur skóla,**

*20. — 22. desemberm.*

**1849.**



# Haustvísur.

Lóan í flokkum flýgur,
fjarlægist sumar ból —
fyrri og fyrri hnígur
fögur að djúpi sól.

Sumarsins sæli ylur
svalauðga storma flýr,
blásnu í fjalli bylur
bálvindur eigi hlýr.

Sumar blóm höfði halla
hnípin í fjalla klauf,
fölnuð til jarðar falla
fríðustu bjarkar lauf.

Haustið ber fljótt að höndum,
hraðfara tíminn er —
tímans í straumi stöndum,
sterklega sem oss ber!

Gleðji því hinn þann getur,
gefi þeim styrk er má,
hausti því víkur vetur
von bráðar fallinn á.

Vetrar þá hjúpur hvítur
hvervetna sveipar land,
og augað úti' ei lítur
unaðar nema grand.

Saman og inni una
einhuga skulum vjer,
minnast þess eins og muna,
margt hvað til gleði ber.

Hvað sem oss ber að höndum,
hugfallast látum ei —
tímans í straumi stöndum,
en stríðum á móti ei!

Harmi þá stangast ströngum,
stríðanda máttinn þver,
í leik og sætum söngum
sorginni drekkjum vjer.

## Umbreytingin.

Gleði öll,
unaðar stund,
óðum flýr,
skuggi kær
mörgum sinnum, þá svífur á braut,
svölun þæga vor andi hlaut,
:,: í því hann færðist fjær. :,:

Huggun þá
huganum því
heimur tjer:
fallvalt hvað
kemur og fer, það er fjær oss og nær,
fyrnist þetta, en bráðlega grær
:,: rós í rósar stað. :,:

Er því ei
unaðar spell
lokið leik
ljúfum sjá,
sama og sama því sjónina lýr,
svölun enga það huganum býr,
:,: er fer ei til nje frá. :,:

Æ vill önd
annað og nýtt,
áfram ber
gjörvallt líf;
stendur ei neitt í stað, sem að á
stunda heimur, og skiptist þar á
:,: sorg og sæla ríf. :,:

Framför öll,
fagnaðar stoð,
frelsis sól,
menntun sæl —
breytingu' eflir og elur með sjer,
eilíf framför því breytíngin er —
:,: hopar villa' á hæl. :,:

Sannleik þann
sjáum þá vjer
sjerhvað eitt
birta, að
breyting ein er í heiminum hjer,
er hlýðir allt, og þá líka vjer —
:,: stendur það eitt í stað. :,:





# Fyrir gleðileikinn.

Eins og elding sem flýr,
eða dagroði hýr
öll er gleði, þá daprast ei hún;
skulu' ei dvali eða dá,
skulu' ei deyfðar ský grá
dimmu vefja' hennar ljósfögru brún.

Þar sem fagnaðar blær
friðar anda sinn ljær
fæðir ellihrím sólvakin blóm,
fjör þar flýgur úr draum
fram í háværan glaum,
færist þögnin í drynjandi hljóm.

Hjer býr glaumur og fjör,
hjer býr glaðværðin ör,
af oss hristir hún skammdegis blund;
en hún flýr burt svo fljótt,
felur glampa sinn skjótt,
fjötri skoðun því hraðfleyga stund!

Sjeuð velkomnir þjer,
sem að kölluðum vjer,
saklauss unaðar njótið oss hjá!
Ljúfu launað er þá,
megi leikheimur sjá
ljóma gleðina heyrendum á.

---

## Eptir gleðileikinn.

Sól þó lækki, lengist vetrar nætur,
lemji vindar frosti kalda jörð,
og vanti ylinn lifna sem að lætur
litverp blóm, þá æða veðrin hörð,
deyr það sízt, sem allt af vermir ylur,
árs á tíma hverjum blómgvað sjest;
ef til vill, þá úti stormur bylur,
inni getur þróazt nærri mest.

Því sá alla hiti fær á huga
himinborinn, yndis sólu frá,
sem að veitir vonar ljós, ef buga
votsöm tára ský, þá falla á;
þau eru líka það, sem vekja tíðum
þægust unaðs blóm i huga manns,

döggvuð, eins og lauf á blómknapp blíðum,
blikar gleðin opt í sálu hans.

Sá er munur samt, að ekki lýsir
sama gleðiljósið allra hug;
víst er það, að mjór er mikils vísir,
margt er smátt, sem veiklar þrek og dug;
en ef harma skúra skýin þjóta,
og skyggja' á gleði, verður bezta ráð,
yndis stundar einnar þá að njóta,
eyða hryggð, að minnsta kosti' í bráð.

Sú oss kallað hingað saman hefur
hugmynd: Gleðistund er margopt þörf.
Allir þreyttir unna því, sem gefur
unaðssama hvíld við lokin störf;
svo, þá hvíldin aptur er á enda,
ánægðir til verka göngum vjer,
þau sízt mega' í iðjuleysi lenda,
líf veit fyrst af hvíld þá starfað er.

Meðan önnur lönd, sem líður betur,
leikhús kóngleg stara hissa á,
þetta landið lítið meira getur,

en látið rjett í heimahúsi sjá
líking þess, sem unað mesta eykur,
einkum fylgi list og snilli með;
sýnishorn var þessi litli leikur,
sem liðinn er og þjer nú hafið sjeð.

Þjer, sem hafið heyrt á vora gleði,
heilir njótið, margs þó áfátt sje,
virðið alltjend viljann, fúsu geði
vjer hann reyndum nú að láta' í tje!
Skiljumst heilir! Ósk sú aldrei dvíni
— Ísland meðan ber af djúpum sæ —:
Frá drottni sjálfum heill og heiður skíni
húsi voru, landi' og þessum bæ!

---

